# HEIMBOÐ

frá

# FRANS til FRÓNS;

til

Herra

# PÁLS GAIMARD

frá

úngum íslendskum bókmentaiðkurum

í

Kaupmannahöfn.

þann 16. Janúarí 1839.

Þrykkt í Berlínga prentverki.

Í Hafnar burt oss heimti rann,
úr hlíðum fjalla blá',
Skjaldgyðjan sú þeim öllum ann
er iðkað mentir fá;
:|: Hirðsölum hennar frá :|:
til Fróns vér eigum fróðleik aptur bera.

Opt leiðist oss hin flata fold,
hvar fjöll ei krýnir snjár,
og fýsir heim á fósturmold
þar fagurt ísinn gljár;
:|: helst af því huggun stár :|:
er saman kémur sveinaliðið únga.

Nú er þó gleðin einna mest —
það opt ei hlotnast vann —
er feingið höfum góðan gést
oss gleði-fundar ann;
:|: vér áður þektum þann :|:
af Frakka komin fold á Ísa-bygðir.

Þér unna lærðum allir þá,
oss unnir lika þú;
velkominn því oss vera má
þinn vinafundur nú. —
:|: Upfyllist óskin sú; :|:
á Ísafold þig aptur lita fáum!

Þar skulum fagna frægum gést',
að feðra gömlum sið
er unni sonum Íslands best;
hann elskum lika við!
:|: Vér Íslands únga lið! :|:
þeim gleymum seint, er gésta var hinn besti.

***Ólafur Pálsson.***